# BARÁTTAN UM HEIMASTJÓRN.



## AFREK VALTÝSLIÐA.



**REYKJAVÍK.**
GLASGOW-PRENTSMIÐJAN.
**1902.**

# Baráttan um heimastjórn.

Saga valtýskunnar síðan 1897 til síðasta þings er flestum kunn. Þó er reyndar margt, einkum að því er snertir aðferð forkólfa hennar til þess að hafa mál sitt fram, sem ekki hefur verið bent á, sem skyldi. Enda þótt fróðlegt væri, að sumt af því kæmi fram í dagsbirtuna, þá verður þó í þessari grein að eins vikið að nokkrum atriðum í baráttunni á síðasta þingi og síðan, allt til þessa.

Það var kunnugt þegar í þingbyrjun, að þess mundi skammt að bíða, að ný stjórn kæmi til valda í Danmörku, — og sú stjórn, sem *frjálslyndir* og *þjóðlegir* menn hér á landi væntu góðs af, að tilleiðanleg mundi að líta með meiri sanngirni á kröfur Íslendinga og verða fremur við óskum þeirra, heldur en hægrimannastjórnin með öllu sínu apturhaldi, sem dr. Valtýr hafði bundið félag við. — *Heimastjórnarmenn* töldu því heppilegast, að láta stjórnarskrármálið bíða, unz þessi breyting kæmist á, en nærri slíku var ekki komandi fyrir *Hafnarstjórnarmönnum*. Þeir vildu um fram allt hraða því sem mest, að stjórnarskrárfrv. yrði samþykkt á Hafnarstjórnargrundvellinum, — vildu að það yrði komið í kring á þinginu áður en ný stjórn kæmi, því að annars kynni að verða farið fram á *„eitthvað meira“*, sem þeim var svo meinilla við.

Heimastjórnarmenn sömdu þá frv. — sem ákvað landinu *ráðgjafa*, *búsettan í Reykjavík*, og í þeirri von, að stjórnin og *Hafnarstjórnarmenn* á *alþingi*

tæki því betur, var gert ráð fyrir umboðsmanni í Höfn, með ráðgjafanafni. —

Nú varð Hafnarstjórnarmönnum heldur en ekki illa við. — „Ísafold var látin hamast á móti þessari ósvinnu. — Sögðu þeir Valtýsmenn, að fyrst og fremst væru engar líkur til, að vinstristjórnin kæmist að, og því síður ástæða til, að hún liti annan veg á stjórnarmál vort en hægrimannastjórnin. Þetta var þeim um að gera að berja fram, og fórust „Ísafold orð á þessa leið 13. júlí f. á.:

„— En þeir vita, þessir sömu piltar [ɔ: heimastjórnarmenn], að vinstrimenn **eru ekki hóti nær** valdastóli nú en fyrir mörgum árum, heldur eru mestar líkur til, að hægrimenn sitji kyrrir **mörg ár enn**, úr því að þeir hreyfðu sig ekkert í vor, hvorki eptir fólksþingiskosningar, né eptir fulltrúafund hægrimanna". —

*Vantraust sitt til vinstrimanna* birtir flokkurinn í sama blaði Ísafoldar. Þar stendur:

„*Eins vita þeir og hitt* [heimastj.m.], *að munnmælin*[1]) **um ríflegri kosti hjá vinstrimönnum oss til handa, er ekkert annað en reykur,** *og að þeir, sem fyrir því eru bornir, eru útvaldir samverkamenn þeirra í viðleitninni að fleka þjóð og þing til að hafna allri stjórnarbót*".

Slík orð fórust „Ísafold" þá um vinstrimenn; „*tómur reykur*" að vænta þaðan „ríflegri kosta", en hjá augasteini þeirra Valtýs, hægri stjórn. — Ekki er heldur að tvíla spásagnargáfuna, í þessu sem öðru hjá „Ísafold". Jón „krukk" hefði mátt vara sig(!!).

Viku seinna (20. júlí) kveður „Ísafold" enn við sama tón, þegar hún talar um „*Vinstristjórnarfluguna*":

„Það er auk þess *fullkunnugt* og *marg fengin vit-*

---

1) Alveg eins og traustið til vinstrimanna væri einhver „kerlingabók"!

*neskja* um það, að *formaður vinstrimanna flokksins danska lítur á ríkisráðssetu og búsetu* **nákvæmlega** *eins og Khafnarstjórn vor(!!) gerir nú og hefur lengi gert*".

Þetta segir sá „*margfróði*". Ekki er það ónýtt fyrir alþingi að eiga aðgang að slíkum óþrjótandi vizkubrunni, sem „Ísafold" er! —

---

*En við hvað miðaði dr. Valtýr frumvarp sitt 1901? Einmitt við vinstrimannastjórn.*

Það liggur í augum uppi, að manni svo kunnugum stjórnarhögum í Danmörku, sem Valtýr segist vera, og svo handgengnum hægristjórn, hafi ekki verið mjög ókunnugt um veðrabrigðin. — Frumvarp hans ber það einnig sjálft með sér, því að á seinasta þingi tók hann upp í það svo marga viðauka, til þess að afla því fylgis, að lítil eða engin von var til, að hægri stjórn mundi samþykkja það. Þar vantaði einnig breytinguna á 61. gr., sem hægrimannastjórnin hafði einatt lagt afarmikla áherzlu á. — Landshöfðingi lýsti því einnig yfir, að breytingarnar væru nú *of* og *van*, svo að það öðlaðist ekki staðfesting hjá núverandi stjórn. — Gegn því lét Valtýr sér nægja að segja, að stjórnin væri *skyldug* að fara að vilja þingsins! — Hún yrði að víkja að öðrum kosti. — Hingað til hafði þó kjarninn í hans evangelió verið sá, að þjóð og þing ætti að breyta í þessu efni samkvæmt „*vilja stjórnarinnar*".

En það þarf ekki að vísa í frumvarpið. „Ísafold" sagði sjálf í sumar, að „*frumvarpið væri* **ekki** *miðað við einsýna íhaldsstjórn*". Og höfuðpaurinn dr. Valtýr segir í greininni frægu í „Nationaltíðindum" 2. des. f. á., að landshöfðingi hafi sagt ýms ákvæði í frv. hans þannig, að hann lýsti því yfir fyrir stjórnarinnar hönd, að þau væri óaðgengileg — og svo segir Valtýr:

„Framfaraflokkurinn lét það samt ekki á sig fá. Vér litum sem sé svo á, *að til valda kynni að vera komið önnur stjórn, er frumvarpið eptir tvö ár yrði borin upp fyrir konung*".

Þarna sagði *dr. Valtýr Guðmundsson satt!*

---

Að vísu gat það hugsast, ef hægristjórn hefði lafað lengur við völdin, að hún hefði veitt þessu frv. samþykki, *af því að hún var á grafarbakkanum*, til þess að hepta ríflegra stjórnfrelsi og sjálfstæði fyrir Ísland hjá nýju stjórninni. — Þetta hefur doktorinn og flokksmennina grunað, — þess vegna þurfti þennan ógnar hraða með málið á síðasta þingi. -- *Um að gera að láta hina apturhaldssömu hægristjórn flytja* með sér *í gröfina sjálfstæði hinnar íslenzku þjóðar*. — Ekki þarf að ugga tryggðina hjá dr. Valtý, að verða við *„síðasta vilja"* hægrimannastjórnarinnar dönsku! —

---

Nú fréttust stjórnarskiptin. Gamla stjórnin, með öllum kreddum og lítilsvirðingu á málstað Íslands, var fallin — og komin ný, frjálslynd og sanngjörn stjórn, sem menn *vissu*, að vildi verða við kröfum Íslendinga. Mörgum er kunnugt, hversu þeim dr. Valtý og ritstjóra „Ísafoldar" varð við þau tíðindi. Dr. Valtýr gekk kengboginn, eins og hann stæði yfir moldum vona sinna og hugsjóna, en ritstjórinn varð eins og gráhvítasti Ísafoldarpappír óprentaður.

Þeir voru þó furðu fljótir að „taka sig saman í andlitinu", og næsta dag eptir var dr. Valtýr hinn kátasti. — Nú dugðu ekki lengur staðhæfingar um það, að hægristjórn sæti að völdum árum saman. — Þá var farið að klifa á *vantraustina til vinstrimanna*. „Autoritetin" staðfestu það hvert af öðru, að *búseta ráðgjafa* hér væri óhugsandi. Nú væru það einkum

„ríkistengslin“, sem Hafnarstjórnarmenn báru fyrir brjóstinu, og vildu varast að rjúfa. Meðal annars sagði „Ísafold“, með fullkomnum óskeikulleik að vanda, 17. ág. f. á. (tölubl. 57):

„Með stjórnarbót alþingis í sumar er farið *svo langt sem unnt er að fara, án þess að raska ríkisheildinni*, slaka á ríkistengslunum — Meginþáttur ríkistengslanna er seta ráðgjafa vors í ríkisráðinu. Og apturhaldsmálgagnið lýsti yfir því, að í því skyni væri farið fram á að flytja ráðgjafann hingað heim, að hann kæmist í raun réttri úr ríkisráðinu, þó að hann færi það ekki í orði kveðnu. Þetta er alveg réttur skilningur — enda er hann tekinn eptir Ísafold“. (!!!)

Og sama blað heldur áfram í sama tón:

„**Vilji hin nýja stjórn í Danmörku halda fast við eining ríkisins þá vill hún heldur ekki veita oss neitt meira en það,** *sem fram á er farið í stjórnarbótarfrumvarpi alþingis í sumar*“. --

---

Valtýingar sýndu það glögglega eptir að stjórnarskiptin fréttust, *að þeir vildu „ekkert meira“*. Þeir börðu áfram Hafnarstjórnarfrumvarpið eptir sem áður.

Heimastjórnarmenn vildu gera sitt ítrasta til þess, að alþingi spillti ekki því, að ríflegri umbætur gæti fengizt, og skrifuðu því e. d. sama daginn, sem málið var þar til 3. umr. og fórust þeim orð meðal annars á þessa leið:

„Það er mjög eðlilegt að hin nýja stjórn kunni að líta svo á, að frumvarp það til breytinga á stjórnarskránni, sem alþingi samþykkir að nýafstöðnum stjórnarskiptum, hafi í sér fólgnar þær óskir og vonir, sem alþ. ber til nýrrar frjálslyndrar stjórnar. Ef því nú er samþykkt á þinginu frv. það, sem gekk fram í n. d. af þeim ástæðum, sem kunnugt er, þá er hætt við því, að þar með kynni að vera loku fyrir það skotið, að

vér um margra ára bil fáum þær umbætur á stjórnarfari voru, sem allir eru sammála um, að vér þurfum að fá, og eigum rétt til að fá: „Innlenda stjórn í sérmálum vorum, með fullri ábyrgð fyrir alþingi og innlendum dómstóli“.

Þá ætluðu Valtýsliðar í N.d. alveg af göflunum að ganga og skrifuðu E.d. ávarp, og skoruðu fastlega á hana að samþykkja frv. óbreytt. *Þeir vildu ekkert meira.*

Þess er rétt að minnast, að einn samvizkusamur maður í liði Valtýinga í E. d. var óánægður með aðfarir þessar, og var trauður til að samþykkja frv., leitaði hann og annar flokksbróðir hans úr E. d. samkomulags við heimastjórnarmenn, lögðu fram skrifl. samning og lofuðu að fella frumvarpið, ef hinir gengju að samninginum. Heimastj.menn gerðu það, en þá héldu Valtýingar svo fast hópinn og lögðu svo fast að mönnum þessum, að einn þeirra t. d. barði saman hnefunum framan í annan þeirra úti á götu — og loks fóru svo leikar, að þeir urðu að láta undan ofurkappi flokks síns.

---

Í þinglok, þegar frv. Hafnarstjórnarmanna hafði verið samþykkt í E. d. vildu heimastjórnarmenn enn gera tilraun til þess, að ná betri kostum hjá stjórninni. Hannes Hafstein bar því upp tillögu í neðri deild, þar sem skýrt er frá því, að frv. hafi verið samþ. í n. d. áður en fréttin kom um vinstristjórn, og óskað að fá ráðgjafa búsettan í landinu. Tillagan hljóðar svo:

„Neðri deild alþingis skorar á stjórnina að leggja fyrir næsta alþingi frv. til stjórnarskipunarlaga um hin sérstöku málefni Íslands, er komi í stað frumvarps þess um breytingu á stjórnarskránni, en nú er samþykkt af báðum deildum alþingis, en útkljáð var í neðri deild

áður en kunnugt var orðið um stjórnarskiptin í Danmörku, og sé í því frumvarpi skipað fyrir um alinnlenda stjórn, eptir því sem frekast má við koma, án þess skert sé eining ríkisins, eður **að minnsta kosti** sú breyting gerð á fyrirkomulagi hinnar æztu stjórnar í sérmálum Íslands, *að hér búsettur*, *innlendur maður*, er mæti á alþingi og beri ábyrgð á allri stjórnarathöfninni fyrir innlendum dómstóli hafi yfirstjórn sérmálanna á hendi". —

*Þessa tillögu felldu Valtýingar með öllum sínum atkvæðum í n. d.* Með því hafa þeir rækilega tekið af skarið og sýnt og sannað: að þeir vildu ekkert annað en Hafnarstjórnarfrumvarp síðasta þings.

1. Þeir vilja ekki skýra stjórninni satt frá, að frv. hafi verið samþ. áður en stjórnarskiptin fréttust;

2. Þeir fella **með öllum atkvæðum** tillögu, sem mælist til þess að oss sé veitt alinnlend stjórn!

3. Þeir hafna **með öllum atkvæðum** þeirri varatillögu, að biðja stjórnina að minnsta kosti um þær umbætur „að hér búsettur innlendur maður, er mæti á alþingi o.s. frv." — hafi yfirstjórn sérmálanna á hendi! Í stuttu máli: Úr þeirra flokki í n. d. fékkst ekki eitt einasta atkvæði til þess að leitast fyrir við stjórnina að fá alinnlenda stjórn, né heldur ráðgjafa búsettan í Reykjavík (án nokkurs milligöngumanns í Höfn[1]).

---

Svo sem kunnugt er fór Hannes sýslum. Hafstein á fund stjórnarinnar þegar eptir þinglok fyrir hönd

1) Hafnarstjórnarmenn hafa einatt klifað á ávarpi frá e. d. alþ. í sumar til konungs, þar sem þess er getið, að frv. Valtýinga fullnægi ekki þörfum og kröf-

heimastjórnarmanna, er ekki vildu enn láta ófreistað við nýju stjórnina að fá stjórn sérmála vorra inn í landið. Flutti hann það mál við stjórnina, að Ísland fengi ráðgjafa búsettan í Reykjavík, eða frekari umbætur, alveg eins og tillagan, sem áður er getið og bréf heimastjórnarmanna ber vitni um.

Opt hafa Hafnarstjórnarmenn og blöð þeirra illa látið, en aldrei sem þá, er heimastjórnarmenn gerðust svo firna djarfir að senda mann á fund stjórnarinnar til þess að *reyna að fá meiri umbætur á stjórnarfyrirkomulaginu*, heldur en þeirra flokkur hafði fengizt til að æskja. — Það er óþarfi að vitna í málgögnin þessu til sönnunar. Illmælin, skopið og hrakyrðin um þessa för og erindrekann eru svo í fersku minni og geymast í blöðum Valtýinga þeim til verðugs heiðurs á ókomnum tímum. — Einatt vonuðu Valtýingar að **„för erindrekans yrði erindisleysa“**, að ekkert fengist meira en Hafnarstjórnin þeirra.

Stundum dró þá bliku upp á Hafnarstjórnarhimininn. — Hver fréttin á fætur annari kom um það, að H. H. hefði haft fram erindi sín við stjórnina, og gerðist þá órótt hjá Valtýingum. Það heyrðist, að stjórnin mundi fús á að veita Íslendingum ráðgjafa búsettan í Reykjavík. Þá flutti „Ísafold“ grein um „Heimastjórnarhjalið“, sem hún vissi þá ekki, hvort væri nema *„reykur“* einn — og segir hún þar um skoðanir nýju ráðherranna 19. okt. f. á.:

„Þetta sem þeir vilja, eða eru bornir fyrir, það er **aflöguð** *útgáfa af tíu-mannafrumvarpinu.*

---

um þjóðarinnar. Þetta þakka þeir sér að öllu leyti, en það vill svo vel til — og er á almanna vitorði, að það var fyrir tilstilli eins heimastj. af hinum konungkjörnu, að ákvæði þessi voru sett í ávarpið.

Það er annað og verra en það, — enn verra og og óaðgengilegra fyrir oss.

*Þeir vilja lofa oss að hafa svonefndan Íslandsráðgjafa* **búsettan hér,** *og lofa oss að launa honnm og gjalda honum eptirlaun* og reisa handa honum veglegan bústað hér, og kosta skrifstofuhald handa honum hér. *Þetta vilja þeir allt lofa oss og leyfa* — leyfa oss að létta þeim kostnaði öllum af sér, af ríkissjóði, þótt tekið hafi hann að sér með stöðulögunum". —

Ekki vantar traustið til ráðherranna, mælskuna lipurðina og sanngirnina!

---

## Vonir

Valtýinga hresstust þó aptur skömmu síðar af því að enn var ekkert svar komið beint frá stjórninni og þá segir „Ísafold" 30. nóv. (tbl. 75):

„Vér *vonum*, að hið nýja ráðaneyti láti ekki flekast fyrir heimskra manna fortölur eða hrekkvísra til að ímynda sér, að það verði við hjartans óskum vorum og þörfum með því að eins, *að veita hér búsettum manni ráðgjafanafnbót* og hafa hann fyrir *hlaupasendil* milli Reykjavíkur og Kaupmannahafnar, hvenær sem konungur þarf að gefa út embættisveitingarbréf eður annað því um líkt". —

„**Vér vonum,** *að ráðaneytið láti ekki freistast til að smeygja fram af sér eða ríkissjóðnum hinni lögbundnu skyldukvöð að bera hinn æzta stjórnarkostnað vorn, og demba honum á oss* **fyrir það eitt, að Íslandsráðgjafinn heiti hér búsettur,** án þess að því fylgi í raun og sannleika nokkur hin minnsta færsla stjórnarvaldsins inn í landið". —

*30. nóv.* — sama daginn sem Valtýr talaði fegurst um Ísland og Íslendinga á stúdentafundinum í Höfn,

*vonar* Ísafold fastlega, að stjórnin *láti ekki flekast til þess að veita oss ráðgjafa búsettan í Reykjavík.*— En vonarstjarnan er stundum fljót að hrapa, og svo var enn, því að *viku seinna* skrifar *„fimmið“* undir flokksbréfið til ráðgjafans, — og stafar það „skrif“ samkvæmt orðum „Ísafoldar“

*„nánast af nokkrum grun — — um að kákið alræmda* [frv. heimastj.m.], *eða* **eitthvað því líkt** *kunni* að hafa nokkurn byr hjá ráðaneytinu“. —

---

*Vonirnar* 30. nóv. voru tóm látalæti, ekkert annað en *örvænting*. Nú sá Hafnarstjórnarliðið, að mjög líklegt var, að stjórnin ætlaði að veita Ísl. *heimastjórn, ráðherra búsettan í Reykjavík*, samkvæmt óskum heimastjórnarflokksins. — Nú voru góð ráð dýr. Eitthvað þurfti að gera til þess að hnekkja *ráðgjafabúsetunni*, með öllu því ólagi, annmörkum og kostnaði, sem henni hlaut að verða samfara(!). — Þá var gripið til þessa snjallræðis að skrifa ráðgjafanum, 6. des. f. á. — Þar fer „fimmið“ þess á leit við stjórnina, að hún veiti Íslandi **annað hvort** landstjóra með ráðgjöfum (þ. e. endurskoðunarfyrirkomulagið,— *„landstjórafrumvarpsúrþvættið gamla“*, sem Ísafold kallaði) **eða** *valtýska frumvarpið frá síðasta þingi óbreytt.*

**„Vér þekkjum enga tiltækilega millileið milli þessarar tvennskonar tilhögunar á stjórnarfyrirkomulaginu“**, segir „fimmið“.

---

Hér óska Valtýsliðar eins af tvennu: Landstjórafyrirkomul. *eða* Hafnarstjórnarfrumvarpsins frá síðasta þingi. *Enginn millivegur er þar á milli.*

Kynlegt hlýtur það að virðast, að Valtýingar óska landstjórafyrirkomulags. Þeir höfðu í mörg ár hamast móti endurskoðuninni, landstjórafrumvarpinu, valið því hæðilegustu orð og ofsótt flutningsmenn

þess lífs og liðna og nítt þá á allar lundir. — „Ísafold“ hafði síðast næstliðið sumar og til þess tíma haldið fram að *það* riði í bága við „alríkistengslin“, „eining „ríkisins“, sem hún segir að bæði hægri og vinstri menn líti eins á. —

Það virðist nokkuð kynlegt að biðja stjórnina um „*útþvætti*“, „skrifstofubákn“, sem er „*dýrt*“ og „*ófáanlegt*“!

En það er ekki kynlegt, *þegar þess er gætt, að* **þessi ósk** *er að eins látalæti*, til þess að þykjast halda „merkinu svo hátt, sem það hefur nokkurn tíma komizt í allri stjórnarbaráttu Íslendinga“, eins og „Ísaf.“ segir 21. des. f. á. — „Ísafold“ kannast sjálf við það 28. jan. þ. á., eptir að boðskapur stjórnarinnar kom hingað, að þeir hafi beðið um landstjórann, án þess að geta búizt við, að það fengist, í raun og veru einungis til þess að fá **skýlaust afsvar** stjórnarinnar um það, svo að enginn skyldi fara fram á slíkt“!

* * *

Þeir bjuggust við að landstjórafyrirkomul. fengist ekki. Þeir þekkja enga tiltækilega millileið milli þess og frv. síðasta þings. *Það er því bersýnilegt að allur leikurinn er einungis gerður til þess, að fá stjórnina til að veita* **ekkert annað**, *en frumvarpið frá því í sumar óbreytt.*

„*Fimmið*“ segir líka í bréfinu 6. des.:

„En sé svo, að yðar excell. sjáið yður ekki fært að taka þessa — — málaleitun vora til greina [um landstjórafyrirkomul.], — — þá leyfum vér oss allraviðingarfyllst að láta uppi við yðar excell. *þá* **eindregna** *og* **vandlega íhugaða** *sannfæring vora*, **að þau úrslit stjórnarbótarmálsins, sem felast í stjórnarskrárfrumvarpinu** *frá síðasta þingi*, **verði oss hagfeldust eptir atvikum,** og að *meiri hluti þjóðar vorrar vilji að þau*

*hafi framgang*, ef eigi er hins kostur, sem að framan er á vikið".

Þetta var öllum Valtýsflokknum mjög hugstætt mál á þessum tíma, enda skrifar dr. Valtýr sjálfur höfuðpaurinn í Nationaltíðindi 2. des. f. á., að Íslendingar muni einatt keppa að fullkominni sjálfstjórn [hann hefur líka gert það!!], „þótt þeir um stundarsakir *muni láta sér nægja ekki eins viðunandi fyrirkomulag* [valtýskuna], **sem þeim er einnig vissulega fyrir beztu, eins og nú standa sakir**".

Einna hraustlegust voru þó orð dr. Valtýs í „Studentersamfundet" 30. nóv. fyrra árs. — Þar átti nú ráðgjafabúsetan ekki upp á pallborðið. Hann kvað svo að orði:

„Eg held því föstu, að ráðgjafinn sé **búsettur hér en ekki heima**". — Kvaðst hann skyldi sjá svo um, að **aldrei yrði ráðgjafinn búsettur á Íslandi, „að minnsta kosti get eg og mínir menn(!!) hindrað, að það verði samþykkt reglulega"**.

---

Það væri synd að segja, að Hafnarstjórnarmenn hefðu legið á liði sínu að hafa fram Hafnarstjórnina og girða fyrir heimastjórn. Á alþingi og á fundum utanlands og innan, í blöðum og ráðgjafabréfum höfðu þeir gert hið ýtrasta til að hnekkja búsetu ráðgjafans.—

Hér eru ótalin nokkur „fínni" brögð móti ráðgjafabúsetunni, t. d. tilmæli Valtýinga í e. d. að þegar á næsta vori yrði skipaður sérstakur ráðgjafi, — það sem kallað er í konungsboðskapnum „að kveða *fyrirfram* á um atriði þess fyrirkomulags, *sem verið er að ræða um að koma á*". —

Af sama toga er spunnin sú uppsuða úr „10-manna-frumvarpinu", sem amtmaðurinn á Akureyri samdi og lét sér umhugað um, að kæmist fyrir auglit stjórnarinnar. — Þetta frumvarp fekk að vísu góðan byr í

liði Hafnarstjórnarmanna og blöðum þeirra, sem vonlegt var, því að Hafnarráðgjafinn átti þar *að minnsta kosti*, að hafa jafnmikil völd og hinn [í reyndinni miklu meiri] — en ráðgjafinn segir svo um það frv. í „Dannebrog“:

„Sumir vilja — —hafa *tvo sérstaka íslenzka ráðherra*, annan búsettan í R.vík, en hinn í Höfn, þannig að hinn fyrnefndi skyldi sérstaklega hafa á hendi umboðsstjórnina innanlands og eigá við alþingi, *og* **eingöngu** *fyrir milligöngu hins ráðherrans geta snúið sér til konungsins. Þannig löguð* tvískipting mundi — — hafa svo mikla og augljósa annmarka, að telja verður það fyrirfram óaðgengilegt“.

Svona útreið fengu „fínni tilraunirnar“ til að hnekkja heimastjórn hjá stjórninni. Þó hefur þetta amtmannsfrv. líklega haft lítilsháttar óbein áhrif á konungsboðskapinn, líkt og kýrin hans Djúnka á liðsafnað Frakka til Heljarslóðar. — Það er mælt, að ráðherrann hafi heldur *flýtt* svarinu fyrir bragðið, til þess að þessi eða þvílíkur „samsetningur“ skyldi ekki verða til þess að auka nýjan tvístring í landinu. —

---

Eptir allt sem á hafði dunið kemur svo loks konungsboðskápurinn dags. 10. jan. þ. á.

Ekki hefur hann að *neinu* frumvarp amtmannsins, né skipun sérstaks ráðherra fyrirfram, eins og e. d. vildi. Ekki heldur „5-mannabréfið“, með *annaðhvort* landstjóra *eða* Hafnarráðgjafa, — nei, nei; „fimmið“ fann „*enga millileið*“ milli þessa tvenns, en stjórnin var það fremri, að hún fann millileiðina „*kákið alræmda eða eitthvað því líkt*“ hún býður Íslendingum **„ráðgjafa búsettan í Reykjavík“!**

Ekki var kyn, þótt „Þjóðviljanum“ þætti þetta **„mikil vonbrigði“**, eptir allar skriptirnar og andróðurinn.

---

Þrátt fyrir alla mótspyrnu Valtýsliða, „ríkistengsli", „hvað oss sé fyrir beztu", amtmannsáreynslu o. fl.— þá býður nú stjórnin „ráðgjafa búsettan í Reykjavík", launaðan af fé landsins, alveg hið sama, sem heimastjórnarmenn höfðu barizt fyrir.—Þetta ávannst fyrir sendiförina og aðgerðir heimastjórnarmanna. -

---

Nú var tími til kominn fyrir Valtýsliða, að söðla um — *í orði.* Það var óhugsandi, að nokkur Valtýingur næði kosningu, ef hann *segðist* vera móti heimastjórn, úr því, að hún var boðin. *Þess vegna þurfti að hafa fataskifti, skifta hamnum,* og það *skyndilega!* —

— „Þetta [„þennan óhugsandi milliveg", „uppsuðu úr kákinu alræmda"] höfum við einatt viljað! Fyrir þessu höfum vér barist", segir „Ísafold" og aðrir þegnar Valtýs Stjórnin hefur fullkomlega — *„öllum vonum framar"* orðið við tillögum 5-mannabréfsins(!!!) — o. s. frv.

„Oss er boðið frumvarpið frá síðasta þingi, með þeirri einu viðbót [þ. e. **höfuðatriðinu,** aðal-deiluefninu] að ráðherrann sé búsettur í Reykjavík".—

Fimleg eru hamskiftin. Möndullinn er orðinn liðugur við alla snúningana.

En það var ekki víst, að fyrverandi flokksmenn þeirra hefði eins „hjólliðuga sannfæring", og nú var *„fimminu" „slegið út" i annað sinn.*

Það er ávarpið til „flokksbræðranna", dags. 28. jan. þ. á. -- Þar segir svo:

„*Verði* búsetu ráðgjafans hér svo fyrir komið, eptir hinu væntanlega frumvarpi stjórnarinnar, að hagsmunum vorum í Kaupmannahöfn verði fyllilega borgið, viljum vér — —*fremur hallast* að þessu frumvarpi".

„*Eptir þessu frv. verður* ráðgjafinn *einn* milliliður

milli konungs og alþingis; — — ráðgjafinn hefur *engan* umboðsmann í Khöfn". — --

„Þykir oss þá réttast að taka því, *sé annars* um allt tryggilega búið". — — „Og vér viljum hér með leggja til, að allir flokksmenn vorir *taki* þessa sömu stefnu".—

Þeir vilja „hallast að" frv.: 1. *ef* hagsmunum vorum í Höfn er fyllilega borgið. — 2. *ef* ráðgjafinn er *einn* milliliður milli alþ. og konungs og hefur engan umboðsmann í Höfn -- og 3. *ef* „annars er um allt tryggilega búið". — En er nú eptir þeirra hyggju „um allt tryggilega búið" og hagsmunanna í Höfn fyllilega borgið — ef enginn umboðsmaður er í Höfn, enginn til að gæta hagsmunanna þar? — Eða *ef* þeir ætla að hafa einhvern til að sjá hagsmununum fyllilega borgið, kemur þá ekki þessi skaðlegi „umboðsmaður", „milliliður", sem þeim er mestur þyrnir í augum?!!

Í þessum mótsagnagraut og vafningum sýnir „fimmið", í ávarpinu sjálfu, að það ætlar að vera á *móti* frv. stjórnarinnar, á *móti* búsetu ráðgjafans, eins og áður. —

Eptir orðum þeirra þarf mann í Höfn til þess að „hagsmunum vorum sé fyllilega borgið" — og ráðgjafinn á að vera einn „milliliðurinn". — Það er lítt skiljanlegt, hversu þeir vilja koma þessu saman öðru vísi, en ráðgjafinn sé búsettur í Kaupmannahöfn. Með því er hagsmunanna gætt og enginn umboðsmaður. — Hvað þarf nú ljósara en þetta, til þess að sjá, hvert piltar fara? — Kostnaðinum ota þeir einnig óspart fram, en láta sem það sé þó ekki mikið atriði. —

Hvenær hafa óheilindin og látalætin til blekkingar við kjósendur gengið svo fram úr hófi? — Hvenær hefur verið leikið svo tveim skjöldum í baráttu Íslendinga og kröfur þeirra hafðar svo að leiksoppi?—

---

„Loks er þess að geta, að „fimmið“ skrifaði ráðgjafanum þakklætisbréf 11. febr. þ. á. og segir þar, að tilboð stjórnarinnar muni hafa „öflugt fylgi flokksins“ og muni þeir af fremsta megni styðja þau úrslit stjórnarskrármálsins“. —

Þarna þóttust þeir ryðja sig — og segir „Norðurland“ 15. marz, að með því hafi þeir *„tekið af skarið“*. Það er óbein viðurkenning þess, að þeir hafi þó *ekki* „tekið af skarið til þess tíma — og var sízt að búast við slíkri játning hreinskilnislegri úr þeirri átt. — Þótt því verði ekki neitað, að þessir 5 hafi „neglt“ sig dálítið með þessu ráðgjafabréfi, þá er þó ekki full vissa, að þeir hafi skrifað ráðgjafanum hreinan sannleikann. — Þeir hafa skrifað ráðgjafanum *ósatt áður:*

„Nánasta tilefni til þessarar málaleitunar við yðar excell., er umtal það, er orðið hefur um stj.skr.-mál vort í **fólksþinginn**“, segja þeir í bréfinu 6. des. — en á eptir bréfinu flytur „Ísafold“ í sama blaði:

„Bréf það til ráðgjafans, er hér birtist, stafar nánast af nokkrum grun, eptir síðustu póstskipskomu um að kákið alræmda — — eða **eitthvað því líkt** kunni að hafa nokkurn byr hjá **ráðaneytinu**“.

Það nægir engan veginn til að sýna sannleiksgildi einhverrar setningar, að hún hafi staðið í einhverju bréfi Valtýinga til ráðherrans.

---

Hér að framan er sýnt, hversu ötullega Valtýsliðið hefur einatt barizt á móti heimastjórn, *búsetu* ráðgjafans í Reykjavík. Þeirra markmið er meiri Hafnarstjórn! Annað verður ekki séð af orðum þeirra og athöfnum.

1. Þeir miða frv. sitt við vinstristjórn og fást þó með engu móti til að biðja um heimastjórn.
2. Þeir kalla heimastjórn „heimskustjórn“ og ráðgjafa búsetu á Íslandi óhugsandi.

3. E. d. samþ. frv. óbreytt, eptir að stjórnarskiptin fréttast, þátt fyrir áskorun n. d.
4. **Öll atkvæði Valtýs** í n. d. eru **á móti** því, að æskja í ávarpsformi innlendrar stjórnar hjá nýja ráðaneytinu.
5. „Ríkistengslin" eru talin því til hindrunar, að ráðgjafinn geti verið búsettur á Íslandi.
6. Valtýingar ætla að rifna þegar H. H. siglir til þess að reyna að fá frekari umbætur, heimastjórn.
7. Valtýingar hlakkast um það, að för H. H. til að fá heimastjórn, sé erindisleysa.
8. Valtýr *þverneitar* að færa það í mál við stjórnina með H. H. að ráðgj. sé bús. á Islandi.
9. Valtýr heitir á opinberum fundi 30. nóv. að sjá svo um, að ráðgjafinn verði aldrei búsettur Íslandi.
10. Valtýr kveðst treysta sér til að hindra að ráðgjafabúseta verði samþ. reglulega.
11. Valtýr og „Ísafold" telja Hafnarstjórnarfrumv. síðasta þings, heppilegast eins og nú standa sakir.
12. „Þeir fimm" vilja annaðhvort það, sem ekki fæst, landssjóra, eða frv. síðasta þings, sem sé það bezta, ekkert annað.
13. Þeir vilja hafa hagsmuna vorra gætt í Höfn, en þó engan „umboðsmann" þar — heldur þá ráðgjafann sjálfan.
14. „Ísafold" segir í haust, að þannig lögnð búseta sé eins líkleg til ógagns, sem gagns.
15. „Ísafold" vonar að ráðaneytið flekist ekki til að ímynda sér, að það verði við óskum Ísl. þótt það veiti „hérbúsettum manni ráðgjafanafnbót og hafi hann fyrir hlaupasendil milli Ísl. og Hafnar".
16. Ísafold vonar að stjórnin fari ekki að demba á

oss kostnaði „fyrir það eitt, að Íslandsráðgjafinn heiti hér búsettur“.

Þvert ofan í allt þetta og ótalmargt fleira þvert ofan í alla framkomu sína segir „Ísafold“ 5. apríl þ. á. að ráðgjafabúsetan sé viðbót, sem **aldrei hefur komið fram hinn minnsti ágreiningur um!**

Sama hafa fleiri forkólfarnir sagt; þeir segja, að *aldrei hafi minnsti ágreiningur verið um búsetuna!!* —

Allur þeirra ofsi og andróður gegn ráðgjafabúsetunni er „ekki hinn minnsti ágreiningur“. -- Þeir geta því eflaust með jafngóðri samvizku fellt ráðgjafabúsetuna á næsta alþingi, án þess að þá greini „hið minnsta á um hana“ við heimastjórnarmenn. - Þeir kalla það ekki nema lítinn — kannske alls engan — ágreining, þótt þeir greiði *enn* atkvæði á móti búsetunni!

---

Og ofan á allt þetta segir „Ísaf.“ og Valtýingar, að tilboð stjórnarinnar sé *þeim* að þakka. „Þrátt fyrir megnustu mótspyrnu apturhaldsliðsins“, segjast þeir hafa komið þessu fram. Með öðrum orðum: Með því að berjast árum saman fyrir frumvarpi, sem fer í *gagnstæða* átt, með því að hamast gegn allri heimastjórn, og leita allra bragða til að hamla ráðgjafabúsetunni. — segjast þeir hafa áorkað því, að hún sé nú til boða! En heimastjórnarmenn, sem barizt hafa fyrir búsetunni, sent mann á fund stjórnarinnar til þess að óska þess sem nú er boðið, — þeir eru auðvitað á Valtýingamáli „apturhaldsmenn, stjórnarbótarféndur o. s. frv.

„Öllu snúið öfugt þó“ — má segja um Valtýsliða eða öllu heldur eins og kveðið var um árið.:

„Ef einhver segir: Sól er björt,
Svarthöfði gellur: Hún er **svört!**

---

# Kjósendur Íslands!

Hér hefur nú með nokkrum dæmum verið sýnd framkoma flokkanna síðan um síðasta þing, með og móti heimastjórn.

Gætið þess vel, hvað gerst hefur og hvað nú liggur fyrir.

Á næsta alþingi liggja fyrir tvö frumvörp — nú verður kosið milli heimastjórnar og Hafnarstjórnar.

Þér kjósendur Íslands, sem viljið efla frelsi og framfarir landsins, viljið heimastjórn — úr hvorum flokknum teljið þér öruggara að velja: þeim, er barizt hefur fyrir heimastjórn eða móti henni?

Líklega hafið þér reynt það að fullu, að tryggara er að meta menn samkvæmt framkomu þeirra, orðum og gjörðum, árum saman, en eptir tályrðum og fagurgala-loforðum á kjörfundi, þar sem ætla má, að þeir telji sér mestan hag að tala svo, sem líklegt er að flestir vilji heyra.

Treystið því ekki þeim mönnum að berjast fyrir heimastjórn á næsta þingi, sem felldu með öllum atkv. á síðasta þingi tillögu til stjórnarinnar um meiri umbætur, innlenda stjórn.

Treystið ekki mönnnm, sem eru svarnir flokksbræður þess manns, sem rekið hefur erindi hinna rótgrónustu apturhaldsmanna hægristjórnar í Danmörku, manns, sem vill flytja valdið út úr landinu, yfirráð fjárins út úr landinu og skólana út úr landinu!

Nú er framtíð landsins að miklu leyti lögð í yðar hendur. Nú væntir vor gamla móðir, fósturjörðin, að hver Íslendingur geri skyldu sína. Metið það því mest að sækja kjörfundina til þess að kjósa sanna heimastjórnarmenn, en ekki þá sem hop-

að hafa, leikið tveim skjöldum og barizt undir útlendu merki! Látið ekki vináttu einstakra manna eða hagsmunavon hamla yður frá að ganga götu hins sanna og rétta.

Hafnarstjórnarmenn hafa nógu lengi haft sjálfstæði og réttindi landsins að leikfangi, þótt það bætist nú ekki ofan á, að kjósendur verði leiksoppar í hendi þeirra.

---

# Hvoru meginn er herra Páll Briem?

## Er hann heimastjórnarmaður eða Hafnarstjórnarmaður?

Eptir síðasta alþing þóttust Valtývar eða Hafnarstjórnarmenn hafa tekið landið hershöndum.

Þeir höfðu sett setulið á öll horn landsins. Sannleiksástin sat í Reykjavík, guðhræðslan á Bíldudal, sjálfstæðnin á Akureyri og siðprýðin á Seyðisfirði.

Það var ekkert annað eða lítið annað eptir, en að skammta. Og bitarnir voru ekki svo fáir. Fyrst voru það nú allir gömlu bitarnir: landshöfðingjadæmið, biskupsembættið, amtmannaembættin og margir smærri bitar. En svo var von á nýjum bita, ráðgjafanum sjálfum, og hann var nú ekki lakastur. Það var því engin furða, þó að menn langaði til að vera við uppkomuna. Ekki var það heldur að undra, þó að menn minntust fjarstaddra vina, nú er komið var að því, að færa átti upp úr pottinum. Hr. P. B. hafði ekki látið heyra til sín langa lengi. Þess vegna spurðu margir hvoru megin hann mundi vera. Sumum þótti sem þeirri spurningu væri svarað, er það fréttist, að Einar Hjörleifsson hefði tekið við ritstjórn nýs blaðs á Akureyri, er hr. P. Br. og fleiri áttu að hafa stofn-

að til. Það var nú að vísu grunsamt, en engin fullnaðarsönnun, því að E. H. átti að hafa hærra kaup á Akureyri en í Reykjavík.

Eg hef stundum reynt, að brjóta heilann um það, hvoru megin hr. P. B. mundi vera, en eg er hættur því. Út úr því völundarhúsi kemst eg ekki.

Eg ræð þeim, sem ná til hr. P. Br., að leita úrlausnarinnar hjá sjálfum honum. Hinum sem ekki ná til hans eða „Norðurlandsins", skal eg skýra frá skoðunum hans, eins og hann lýsir þeim sjálfur.

Hr. P. Br. virðist hafa verið hávaltýskur **allan október og nokkuð af nóvember f. á.** Hann segir 8. okt. í greininni „Yfirlit og horfur", að sér sé „illa við 61. gr. eins og hún er í stjórnarskránni". Hann segir 15. s. m. í áframhaldi sömu greinar: „Mest höfum vér lært að því er snertir stjórnarskrármálið, síðan dr. Valtýr bar fram tilboð stjórnarinnar 1897". Hann segir að það sé „sómi fyrir okkur, að ráðgjafi vor á sæti í ríkisráði konungs". Hann segir að með frumvarpi síðasta alþingis sé „merki Íslands borið hátt". — Hann segir 12. nóv., að „búsetan sé ekki neitt aðalatriði", geti „ekki verið nema aukaatriði". Jafnframt gefur hann 10-mannafrumvarpinu olnbogaskot eptir mætti.

Í **desemberlok** er hann orðinn tveggja ráðherramaður, og er þá kominn á skoðun 10-menninganna að öðru leyti en því, að hann vill hafa báða ráðherrana jafn rétthá. Hann segir 31. desbr. í grein, er hann nefnir „Nýjar tillögur": „Þar sem frumvarpið frá 1901 alls eigi fullnægir kröfunni um búsetu hinnar æztu stjórnar innanlands, þá virðist einsætt, að taka þann kostinn sem betri er".

**Hálfum mánuði seinna** eða naumlega það, 11. janúar þ. á., er hann öðrum þræði orðinn fylgjandi landstjórafrumvarpinu. **Þrem vikum seinna** eða 3.

febr. væntir hann þess, „að allir Íslendingar muni nú verða á eitt mál sáttir um, að taka því fegins hendi, að fá ráðgjafann fyrir Ísland jafnrétthåan öðrum ráðgjöfum, búsettan í Reykjavík“ (sbr. konungsboðskapinn).

**Viku seinna** eða 11. s. m. er kominn apturkippur í hann. Þá segir hann: „Svo nefni eg búsetu ráðgjafans hér. Menn munu almennt gleðja sig mest af henni. En þegar menn fara að hugsa sig um, þá segir mér þó svo hugur um, að sú gleði verði blönduð“.

**Fjórum dögum** seinna eða 15. febrúar er hann aptur orðinn tveggja ráðherramaður. Hann segir þá: „Það er satt og rétt, að stjórn landsins þarf að vera búsett í landinu sjálfu, en þótt svo se, þurfum vér öldungis eins, að hagsmuna vorra sé gætt í útlöndum. En þetta er einmitt það, sem á að vera og ætti að vera hlutverk ráðgjafans í Kaupmannahöfn“.... „Í boðskap konungs er oss gerður kostur á, að fá annaðhvort ráðgjafa í Kaupmannahöfn eða í Reykjavík. Ef vér kjósum ráðgjafa í Reykjavík, þá sleppum vér gamalli kröfu ..... til að hafa ráðgjafa í Kaupmannahöfn“. „Ef vér aptur á móti kjósum ráðgjafa í Kaupmannahöfn, þá höfum vér að vísu ekki sleppt kröfu um ráðgjafa í Reykjavík (!), en vér höfum frestað henni að minnsta kosti um 2 ár*). Á alþingi 1903 hefði mátt samþykkja frumvarp til stjórnskipunarlaga um það, að leggja niður landshöfðingjaembættið og ákveða að ráðgjafa skyldi skipa í Reykjavík til þess, að mynda ráðaneytið fyrir Ísland ásamt ráðgjafanum í Kaupmannahöfn(!)“.

Til þrautvara vill hann hafa 2 ráðherra í Reykjavík, er hræddur um að 1 maður geti ekki afkastað öllu því, sem ráðgjafanum sé ætlað.

---

*) sbr. þó konungsboðskapinn og ritstjórnargreinina í „Dannebrog“.

Það er seinasta tillagan.

Mér telst þannig til, að hr. P. Br. hafi á 5 mánuðum frá októberbyrjun til febrúarloka haft 6 sinnum pólitisk fataskipti. — Hann hefur auðsjáanlega sjálfan grunað, að tekið mundi verða eptir svo snöggum umskiptum. Því skrifar hann 14. janúar þ. á. enn eina greinina, er hann kallar „Skýringar".

Greinin byrjar orðrétt svo: „Eg hefi skrifað um stjórnarmálið í „Norðurlandi" eins ljóst og eg hefi getað*), en samt sem áður hefur mér eigi heppnast, að skrifa eins ljóst og nauðsynlegt hefur verið, og því verð eg, að reyna*) að skýra málið enn betur".

Svo kemur skýringin. Hr. P. Br. hefur gert mikið úr þingræðinu, eins og allir vita, sem hafa haft sálarburði til að lesa „Norðurlandið". En nú segir hann allt í einu: „Eg álít ekki rétt, að ráðgjafi eða ráðgjafar velti úr sessi, þó að atkvæðagreiðsla á þingi gangi á móti í einstökum málum". Það á þá ekki að verða meira en þetta íslenzka þingræðið. Ráðgjafinn á ef til vill, að geta setið, þó að þingið neiti honum um fjárlög eða önnur principlög!

Þetta er þráðurinn í stjórnmálagreinum herra P. Br. Nú geta mér gáfaðri menn lesið sér til, hvoru megin hann muni vera.

Hr. P. B. byrjaði fyrstu stjórnmálagrein sína svo: „Það eru í sumar 10 ár síðan eg átti sæti á löggjafarþingi Íslands. . . . . Sagði eg þá við einn af vinum mínum og samþingismönnum, að hann þyrfti ekki að búast við mér á þingi um næstu 10 ár". Eg spurði sjálfan mig, þegar eg hafði lesið allar greinar hr. P. B.: „Til hvers býður maðurinn sig fram aptur? Ekki getur það verið að eins til að binda enda á ádráttinn um, að lofa vininum að sjá sig apt-

*) Auðk. af höf.

ur á þingi eptir 10 ár. Ekki getur það heldur verið til að greiða atkvæði í stjórnarskrármálinu. Hann þykist nú hvorki vera ánægður með Hafnarstjórnarfrumvarpið eða heimastjórnarfrumvarpið væntanlega, enda er atkvæði amtmanns á þingi ekki þyngra en atkvæði bónda. Ekki getur það heldur verið til að bindast fyrir skólamál vor, eins og „Norðurland“ heldur nú fram. Þau koma eptir ályktun síðasta þings ekki til umræðu fyr en Guðm. Finnbogason er búinn að ljúka sér af ytra 1903. Ekki getur það heldur verið til að styðja búnaðarmálin.

Þau liggja ekki fyrir á næsta þingi. Ekki getur það heldur verið til þess að vera við uppkomuna, þegar á að fara að skammta, það þori eg nærri því að ábyrgjast.

En til hvers þá?

Um það geta Húnvetningar spurt P. Br. á kjörfundinum. Þeir eiga nú að kjósa milli hans og manns, sem ekkert hik var á á síðasta þingi.

**Húnvetningur.**



